# AFMÆLISDAGUR
í
# tólf stundum.

Athugagreinar á afmælisdegi manns.

---

Gefinn út
af
**Svb. Hallgrímssyni.**

---



AKUREYRI 1856.
Í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins,
hjá H. Helgasyni.

# I. STUND.

## Afmœli manns og œfi.

1. Afmælisdagarnir eiga ekki einungis að vera uppáhalds- og tyllidagar fyrir heimilisfólkið, heldur helgustu alvörudagar fyrir manninn sjálfan. þeir koma ekki svo opt að á æfinni, og í hvert sinn sem vjer lifum þá upp aptur, höfum vjer sjálfir breyzt, eins og líka hlutirnir í kringum oss.

2. Hversu margt liggur enn fram undan mjer! segir æskumaðurinn; hversu margt liggur þegar á baki mjer! segir fullorðni maðurinn. Hversu marga vantar mig nú ekki þennan dag í hóp vina minna, sem voru þar fyrir fáum árum! segir gamalmennið; og hversu mikið vantar ekki enn á, að jeg hafi fengið allar óskir mínar! segir sjerhver maður.

3. Sjerhver gætinn maður álítur þann dag ársins, sem hann fæddist í heiminn, mikinn merkisdag, er hann á þá á margt og mikið að minn-

ast. Það er sannur atriðisdagur fyrir hann, og slík merkisfótmál telur hann fá á æfi sinni.

4. Því eldri vjer verðum, þess styttri finnast árin oss. Eins og steinninn, sem veltur niður brekku, fleygist því harðar sem hann kemur neðar, eins líður æfin því hraðar sem hún fjarlægist meir æskuna og nálgast elli og gröf.

5. Sandurinn í stundaglasinu rennur fyrst hægt, síðan miklu óðar. Barnið langar fram á miðskeið æfinnar, af því það girnist sjálfræði og vill fá að njóta lífsins, eins og fullorðni maðurinn.

6. En bráðum fer því að blöskra hve hraðfara tíminn er, og það þreifar á því, að ekki þarf að fá honum nýja vængi, er hann flýgur svo ótt og hratt með sínum eigin.

7. Vænt þykir æskumanninum, þegar hann kemst á það skeiðið, sem hann losast undan aga og umsjón foreldra sinna, og má sjálfur ráða dögum sínum og verkum.

8. Það sem áður var fyrir huga hans eins og döpur von, birtist nú í blóma sínum og veitist honum. Hann finnur að hann má sín mikið, enda örvæntir hann ekki um neitt.

9. Hann hefur mikið fyrir stafni, og gengur að framkvæmdinni með glöðum huga; ímyndunaraflið sýnir honum allt í einhverju töfraljósi.

10. Þegar hann ætlar að framkvæma það, sem honum leikur helzt hugur á, gjörir hann ráð fyrir að allt sje vinnandi vegur, en gætir ekki hins ónóga í kröptum sínum, nje hins óheppilega í kringumstæðunum.

11. Hann kemur nú til vits og ára, eignast konu og börn. Þá lærir hann af þungri reynslu, að mikið vantar á að maðurinn nái hverju því miði, sem hann hefur sett sjer, og að hann kemst alls ekki lengra, enn járnskorður kringumstæðanna leyfa honum.

12. Hann gjörði sjer von um velmegun, en hreppti áhyggjur og hugsýki; hann taldi víst að öðlast það, sem honum ljek helzt hugur á, en rak sig þar á örðugleika, sem hann hugsaði sízt.

13. Í þessum umsvifum og baráttu fyrir því, sem hann aldrei fær náð, hvítnar hann af hærum svo hann veit ekki af. Honum bregður við það. Hann verður alvarlegri, hæglátari, stilltari.

14. Meðan hann var að brjótast á fram í lífinu, fjekk hann mörg djúp sár, sem hjarta hans svíður enn af, þó sum eigi að heita gróin. Hann rennir nú augum aptur fyrir sig yfir farinn veg.

15. Þá sjer hann fyrst, hversu opt hann hefur farið villur vega. Hann er nú orðinn hyggnari og iðrast eptir margt, sem hann hefur gjört, en þó eptir fleira, sem hann hefur látið ógjört. Þessi vizka er mikilsverð, en hún er opt of dýrkeypt, og kemur aldrei fyr enn um seinan.

16. Eins þykir líka hinni ungu stúlku vænt um, þegar hún kemst á blómskeið æfinnar. Þá flykkjast að henni loftungur, og hún heyrir ekki um sig annað enn lof og dýrð.

17. Tilfinningar, sem hún hefur aldrei fundið til áður, fara að hreifa við hjartanu í brjósti hennar; og hver ánægjan tekur þar við af annari. Hún lítur niður fyrir sig á stúlkubörnin, sem hún þykist vera svo mikið yfir, og ber sig saman við eldri systur sínar, sem farnar eru að fölna, og hælist um yfir þeim í hljóði.

18. Meðan hún er í vorblóma æfinnar finnur hún ekki til sólarhitans, sem á sumrin dregur úr manni allan þrótt. Hún rennir grun í þær unaðsemdir, sem í vændum eru, í gæfu konunnar við hliðina á elskuðum manni, í ánægju móðurinnar innan um glaðværan barnahóp.

19. En einn afmælisdagurinn kemur yfir hana eptir annan. Og loksins telur hún líka með heimuglegum kvíða þann daginn, sem ber hana út yfir blómskeið lífsins.

20. Fegurð hennar tekur að fölna; ungu stúlkurnar fara þegar að keppast á við hana. Og þeir sem áður dáðust að henni, draga sig í hlje.

21. Innan um rósir hjúskaparins spretta því miður of fljótt upp þyrnibroddar, sem ekki sáust álengdar.

22. Með grátandi tárum verður móðirin að taka ástfólgið barn upp úr ruggunni og leggja það í líkkistuna, og gjalda með harmi gleði þeirrar, sem hún hafði af því.

23. Of óðfluga leið á burt æfi bæði karls og konu, og æ því hraðara sem hin hruma elli færðist nær.

24. Ef þú vilt fullnægja ákvörðun þinni, maður! þá láttu vængjaflug tímans ávallt minna þig á að breyta skynsamlega í tíma, svo þú þurfir ekki að kveljast af angri eptir á, þegar það er orðið um seinan.

25. Vittu, að sá sem í æskunni gætir stillingar og gætni hinna reyndu og rosknu, getur tekið hlutdeild í gleði og ánægju æskunnar, þegar hann verður gamall.

26. Breyttu svo, að þú þurfir aldrei að halda afmælisdag þinn með iðrunar tárum, með gremju yfir sjálfum þjer og brestum þínum, heldur einungis með þessari meðvitund: jeg er í mörgu tilliti betri enn jeg var fyrir einu ári!

27. Þegar þú byrjar nýtt æfiár, þá láttu það ekki einungis vera þjer nýtt stig í aldri, heldur auðsjáanlegt framfararstig í fullkomnun. Mundu eptir því, að tíminn stendur aldrei við, og ef þú eyðir einu ári til ónýtis, þá er það óbætanlegt tjón fyrir tilveru þína og hamingju.

28. Líttu með virðingu á foreldra þína á fæðingardegi þínum. Þeir voru það, sem með viðkvæmni hlyntu að hinni ungu jurt og reyndu

til að verja hana fyrir óveðri, svo hún gæti þroskast og þrifist.

29. Þeir voru það, sem báru sorg og áhyggju þín vegna, áður enn þú hafðir sjálfur af sorg og áhyggju að segja. Þeir elskuðu þig heitt og innilega, áður enn þú hafðir vit á að elska þá aptur.

30. Hafðu þá þjer fyrir hugskotssjónum, ef þú ekki sjerð þá sjálfa. Minning þeirra stjórni áformum þínum og ráði athöfnum.

31. Lifðu samboðið blessun þeirri, sem þeir lögðu yfir þig; og sje þeim unnt í sælunnar híbýlum að sjá til þín á jörðinni, þá láttu enga svívirðilega hugsun í sálu þinni spilla þeirra himneska friði og fögnuði.

## II. STUND.

### Ellin og æskan.

1. Láttu eigi hugfallast, mannleg sál! þó kraptar þínir þverri, þó að líkaminn, sem þú býrð í, veikist og hrörni og leggist loksins liðið lík.

2. Á sumrin gljáðu blómin af næturdögginni

í tunglsljósinu. Sjerhvert blóm var skreytt sinni silfurperlu.

3. Þegar dagur ljómaði, döpruðust og hvurfu hinar gljáandi perlur, því tunglið gekk undir, og að eins kaldir dropar sátu eptir á blómunum.

4. Sjá! þá rann upp sólin; blómin tóku að gljá á ný, en í staðinn fyrir perlur ljómuðu demantar á blómknöppunum, er gjörðu morgunstundina svo prýðilega.

5. Gamli maður! þjer mun líka fyr eða síðar upprenna sú sól, sem ber nýan ljóma á þína gráleitu daggardropa.

6. En hvernig sem æfi þín reynist hjer, þá vittu, að sjerhver kafli mannsæfinnar hefur sínar unaðsemdir, og að gæzka guðs sinjaði engum aldri um sinn skerf af ánægju.

7. Gamalmennið horfir með glöðum huga yfir hin mörgu árin, eins og yfir breytilegan draum. Hann gjörir sjer það til skemmtunar í einveru sinni.

8. Hann hefur ánægju af að virða fyrir sjer annir og umsvif fullorðinsáranna, glaðværðir og skemmtanir æskunnar.

9. Mörgu hefur hann gleymt innan um aragrúa atburðanna; en það sem honum var geðfelt í æskunni, situr fast í minni hans.

10. Með viðkvæmni minnist hann enn sinna fyrri vina og vinkona. Flest af þeim er þegar komið undir græna torfu, og hann þráir opt með sárum trega að koma á eptir þeim. Takmörk hins jarðneska og eilífa lífsins renna að kalla saman fyrir sjónum hans.

11. Þegar hann var barn, horfði hann þegjandi á með mestu undrun, er hin gullna sól rann upp af morgunroðanum; nú gengur sól til viðar, og frá sjer numinn af fögnuði sjer hann allt eins og á iði í inndælu kvöldskyni, og alla hluti í kringum sig daprast smátt og smátt af rökkrinu og renna saman í eitt.

12. Unaðsemdir hans jarðneska æskulífs verða æ ununarfyllri fyrir huga hans; þess vegna þráir hann fyrirheitna landið hinu megin grafarinnar, morgunroða eilífðarinnar og æskulífið á landi ódauðleikans, sem guð hefur kallað og kjörið hann til.

13. Þú, sem nú lifir blíða og heiðarlega elli, skalt álíta það sem umbun fyrir þína fyrri

mæðu og erfiði! þú hefur náð því takmarki, sem allir stefndu og stýrðu að; mýmargir fórust á miðri leið mitt í því þeir hugsuðu, að allt gengi sem bezt.

14. Nú hefur þú þínar hvíldarstundir. Eins og hinn þreytti kornskurðarmaður hvílir sig að kvöldi, eins hvílist þú á kornbindunum þínum og lítur með gleði yfir hinn víðlenda akur, sem þú hefur yrkt.

15. Þjer hefur hnignað að fjöri og afli, en þú getur enn þá gagnast mönnum mikið með þinni margföldu reynslu og hyggindum.

16. Þú lifir nú innan um þakklát börn og barnabörn. Þú ólst önn fyrir þeim meðan þau voru ung; nú keppast þau aptur við að gjöra þjer lífið þægilegt og geðfelt, og með ástríki sínu að umbuna þjer fyrir þær sorgir og áhyggjur, sem þú áður lagðir á þig fyrir þau.

17. Þú sem enn ert ungur þarft ekki að kvíða fyrir ellinni, ef þú lifir æfi þína ráðvandlega og forsjállega. Þó hún hafi marga anmarka í för með sjer, nýtur hún samt margrar ánægjustundar.

18. Taktu ekki hart á brestum gamalmenn-

isins. Þeir geta gefið þjer marga þarflega hugvekju. Vera má að þeir sjeu afleiðing af illu uppeldi í æskunni.

19. Gættu þess hvernig brestir barnsins geta loðað við og fylgt því fram til elli. Speglaðu þig í slíku dæmi, legðu niður þína eigin bresti og sjáðu um, að börn þín fái betra og guðrækilegra uppeldi.

20. Gætir þú verið svo miskunarlaus að gjöra gömlum manni lífið biturt í elli hans? Vildir þú vera valdur að því, að hann skildi við heiminn með særðu hjarta, og gengi fyrir hástól guðs með umkvörtun yfir þjer?

21. Gæturðu verið svo tilfinningarlaus, að vilja ekki sykra honum síðustu daga hans mæðusama lífs, og eigi ljetta honum eptir megni seinustu fótmálin á hans langa lífsskeiði?

22. Vildir þú ekki umbuna þínum gráhærðu foreldrum og frændum þá umhyggju, sem þeir báru fyrir þjer, og með ást og alúð kvitta nokkuð af skuld þinni við þá? Þú værir þá umskiptingur, sem allir hefðu á andstygð, og sem öll sú bölvun hvíldi á, er fylgir vanþakklæti.

23. Þorir þú að fyrirlíta ellina? Þú kant sjálfur að verða gamall og hrumur; hver veit nema þú lifir það að höfuð þitt hærist, hönd þín skjálfi og þurfi stuðnings? Þjer kemur það þá vel, að hinir yngri virði þig, og þú nýtur þess að þú barst sjálfur virðingu fyrir öðrum.

24. En það er skylda þín, gamli maður! að vera fyrirmynd hinna ungu í kristilegri hógværð og þolinmæði í öllum þrautum.

25. Vertu kennari þeirra og leiðtogi, en varastu það nöldur og önuglyndi, sem ekki getur annað enn spilt þeirri ánægju, sem æskunni er heimilt að njóta.

26. Þú veizt það, að þessi ánægja æskunnar er fljótt á förum; þú átt því jafnvel að hvetja hina ungu til að njóta hennar, en njóta hennar siðsamlega og í hófi.

27. Gjörðu hvað þú getur til að prýða hina saklausu daga barnæskunnar! Veröldina getur þú ekki farsæla gjört, en gjörðu þá barnið að minnsta kosti svo sælt sem unnt er, svo það nefni nafn þitt með þakklæti og viðkvæmni, þegar allir aðrir eru fyrir löngu búnir að gleyma þjer.

28. Enginn má vita, hvaða þrautir og þjáningar ókomni tíminn felur í skauti sínu og hefur búnar barnunganum.

29. Æ, svo gjörðu þá að minnsta kosti æskuár barnsins björt og inndæl, svo það hafi þó af einhverju góðu að segja, og geti á síðan á sorgarstundum æfi sinnar haft ánægju af að rifja upp fyrir sjer hin inndælu æskuár.

30. Meinaðu ekki barninu þó ungt sje að líta til hins eilífa, sem er þess ósýnilegi faðir.

31. Trúin sje sá engill, sem vekji og glæði hugmyndina um guð í hinni ungu sál barnsins, sem brynji það snemma gegn valdi girndanna, og bjargi sakleysi þess í ofviðri lífsins, á dögum freistinganna, í umskiptum lífskjaranna.

## III. STUND.

### Eptirsókn manns og iðja.

1. Undarlega mannlíf! það er opt á svipstundu sem himnaríki og helvíti skiptist um fyrir þjer.

2. þú átt í sífeldri baráttu, maður! því þú

ert allt af að sækja eptir einhverju betra, og berst á móti straumi atburðanna, en öldur lífsins skella hart á þjer, og eyða kröptum þínum því miður opt fyrir tímann.

3. Mjög margar ráðagjörðir hefur þú haft í frá barnæsku; ótal margar óskir hafa leitt þig til óteljandi ýmislegra athafna. Og hvað hefur orðið úr öllum þínum ráðagjörðum, öllum þínum óskum?

4. Opt sá þær sami dagur koma og fara; opt barstu þær með þreki og stöðuglyndi frá einu ári til annars og ljezt ekki af þeim; og loksins þegar þú hugsaðir, að þú værir kominn nærri takmarkinu, sem þú hafðir lengi þráð, hratt þjer eitthvert smáatvik langt í burtu frá því. Með eptirsjá slepptir þú þá þeirri von, sem skemmti þjer svo árum skipti, en sveik þig þó á endanum.

5. Ef þú rifjar upp fyrir þjer hina fögru daga æsku þinnar — ó, þá var æfin önnur! Hversu langaði þig þá til að verða stundum þetta stundum hitt, að öðlast ýmist þetta ýmist hitt!

6. Af þúsund hlutum, sem þú gjörðir þjer

þá von um, veittist þjer ekki einn; hvor vonin hratt annari í burt; og þegar blómið brosti á móti þjer í mestu fyllingu, bljes frá himni nægur gustur, svo blómið fölnaði; þú litaðist um eptir ávöxtum, en sást enga.

7. Þú eltist og tilfinningar þínar urðu þá enn næmari og viðkvæmari; nýjar óskir kviknuðu í brjósti þínu, og nýjar ráðagjörðir komu upp í huga þínum, og allt var búið unaðsfegurð ímyndunaraflsins.

8. Hin unga mær sökkti sjer niður í draumsjónir um æfi sína, og stefndi með áhuga að miði sinna heimuglegu óska.

9. Yngismaðurinn rjeði sjer ekki fyrir fjöri og frelsi, sá veröldina og hennar dýrð blasa á móti sjer, og hugsaði að hann gæti náð því öllu.

10. Samsíða hinum ungu, sem ímyndunaraflið gjörir svo sæla með sjálfum sjer, gengur fullorðni maðurinn, konan og móðirin.

11. Með meiri alvörugefni og gætni ganga þau í kringum frækornin, sem þau sáðu, er þúsundum saman dóu út af, meðan þau voru að koma upp, og þúsundum saman spruttu upp,

til þess að brotna út af í stormi, er minnst vonum varði, áður þau náðu fullum þroska.

12. Æ, af þeim börnum, sem þau væntu sjer af mesta sóma, liggja þegar í gröfinni þau, sem þeim þókti vænst um; af vinum þeim, sem þau ætluðu sjer að búa að bæði vel og lengi, er helmingurinn þegar frá þeim horfinn; af þeirri tign, velsæld og framkvæmdum, sem þau gjörðu sjer vissa von um, sjest varla skugginn einn eptir.

13. Afhuga öllu fetar gamalmennið að markasteinum æfinnar. Það gjörir það nauðugt að líta aptur fyrir sig.

14. Hið umliðna er í augum þess blekkinganna land, hið ókomna land vonarinnar. Það lítur burt af jarðlífinu og lyptir augum í hæðir, þar sem engin blekking á sjer stað.

15. Hann segir: sú var tíðin að jeg hafði ljónsafl, að jeg hafði jötunmóð, að jeg hafði til að bera hyggindi og stálþrek — en minn bezti tilgangur fórst fyrir, og viðleitni mín hafði allan annan árangur enn jeg hafði búizt við.

16. Þú skoðaðir opt huga þinn um það, maður! hversu lítið afdrifin samsvöruðu athöfnum

manna, og hvernig dauðlegur maður neyddist opt til að ganga annan veg, enn hann sjálfur vildi.

17. Þú skalt þá vita, að það eru ekki blind forlög, sem meðvitundar- og stjórnlaust leika sjer að kjörum manna.

18. Heldur er það hin æðsta speki, sem aðdáanlega stjórnar hinu gjörvalla, eins og hinu einstaka, kjörum hins minnsta skriðkvikindis, eins og hinnar stærstu þjóðar, svo að öllu sje vel borgið. Hún leiðir allt fram til fullkomnunar.

19. Maðurinn hefur ekkert á sínu valdi nema sjálfan sig, — ekki nokkurn hlut nema sjálfan sig. Jafnvel það, sem honum er næst, eins og er líkaminn, má varla heita á valdi hans.

20. Maðurinn á einungis ráð á sjálfum sjer, anda sínum. Andinn einn hefur vilja. Andinn getur ráðið sjálfum sjer. Hugrenningin er á hans valdi, viljinn er á hans valdi, athöfnin er á hans valdi, en afleiðingar hennar eru ekki á valdi hans.

21. Hann varpar athöfn sinni út í lífsins straum; þar verður hún að leiksopp óteljandi smáalda, sem allar eru samtaka; og hann get-

ur ekki gjört ráð fyrir afli þeirra nje stefnu.

22. Af mörgu, sem hann ræðst í, af mörgu, sem hann vann að með mestu fyrirhöfn, mestum áhuga, er hann bjóst við glæsilegustu afleiðingum af, uppsker hann langminnstan árangur.

23. Aptur var margt verk, sem hann gjörði sjer minnstu von um, orsök til afleiðinga, sem honum höfðu sízt til hugar komið, og var af allri alþýðu, sem dæmir um athafnir manna eptir afleiðingunum, en ekki eptir tilganginum, talið honum til mikils ágætis, eða til mikillar minkunar.

24. Þannig er það sitt hvað maðurinn og vilji hans, eða athöfn hans og afleiðingar hennar. Rjeði hann fyrir athöfnum sínum, eins og hann ræður yfir vilja sínum, þá væri hann eins og guð

25. En það lifir einn guð, sem öllu ræður í kringum þig. Hann stjórnar kringumstæðum, atburðum, kjörum; þú sem ert svo skammsýnn, hefst að eins og blindur maður innan um aragrúa viðburðanna, og veizt ekki hver afdrifin verða.

26. Afdrifin gjöra ekki athöfn þína góða,

heldur hefur hún allt sitt ágæti af vilja þínum og góða tilgangi; að öðru leyti getur enginn dauðlegur maður og jafnvel ekki sjálfur þú ábyrgzt þjer hana.

27. Viljinn einn, sem þú áformar með athafnir þínar, er þinn ábyrgðarhluti; allt annað, sem af þeim leiðir, er handleiðsla og stjórn forsjónarinnar.

28. Allt er komið undir blessun hennar. Hún sýnir sig ekki einungis þá, er þú fær óskir þínar, heldur einnig þegar þú fær þær ekki.

29. Sje tilgangur þinn hreinn, og hafir þú hugsað þig um hlutinn, eins og þú hefur bezt vit á — þá farðu og framkvæmdu!

30. Ekkert illviðri getur grandað hinu góða sæðinu. Engin heilög hugrenning er ávaxtarlaus; ekkert orð, sem talað er fyrir sannleika og rjettlæti, þýtur fram hjá árangurslaust; sjerhvert frækorn, sem þú sáir út á akri dyggðarinnar, ber ávöxt.

31. Þú munt sjá þá á degi uppskerunnar, og binda þá úr þeim kórónu dýrðarinnar um höfuð þjer.

# IV. STUND.

## Iðjusemi og starfsemi.

1. Speki skaparans vildi ekki að maðurinn eyddi æfi sinni í iðjuleysi, eins og óviti.

2. Hann ætlaðist til að maðurinn væri sinn eiginn lukkusmiður; þess vegna gaf hann honum frjálsræði til að gjöra það sem honum geðjaðist bezt, og skynsemi til að þekkja og velja hið góða.

3. Hann þrýsti honum með hinu harða lögmáli neyðarinnar, til að forðast iðjuleysi og hagnýta þær sálargáfur, sem honum voru veittar til að bæta kjör sín.

4. Dýrunum á mörkinni gaf hann loðna feldi til skjóls, fuglana hjúpaði hann í fiðurhami, svo þeim væri borgið í hverja veðri, en manninn skapaði hann beran og nakinn.

5. Dýrin útbjó hann í frá fæðingu með verjum, svo þau gæti varið sig fyrir óvinum sínum; veitti hann sumum framúrskarandi afl, sumum óvenjulegan fráleika; en maðurinn hafði af náttúrunni alls ekkert, er hann gæti beitt

á móti hornum nautsins, klóm ljónsins, afli tígrisdýrsins, tönnum höggormsins.

6. Hann gaf honum vit og skynsemi. Hann átti sjálfur að finna upp á verjum sínum, sjálfur sjá sjer fyrir öllu.

7. Hann þrýsti honum til að hagnýta öfl andans, svo hann gæti ráðið yfir öllum dýrum, gæti unnið fyrir fæðu sinni með því að yrkja jörðina, sjálfur byggt sjer hús til að búa í, þorp og víggirtar borgir, og hugsað upp heilsusamleg lög til að tryggja frið í fjelagslífinu.

8. Gættu þess þá: skaparinn gaf þjer ekki krapta þína til einkis. Ef þú hirðir ekki um að hagnýta þá, ef þú ert skeytingarlaus um að verja því pundi, sem þjer er trúað fyrir, þá steypir þú sjálfum þjer í glötun.

9. Æskumaður! fyrir fáum árum varstu barn; innan fárra ára gjörist þú gamall og grár af hærum.

10. Flýttu þjer að nota tímann, því hann stendur ekki við! Brúkaðu hann ávallt til þarflegrar iðju; þá lifir þú til meira gagns á einu ári, enn hinn hugsunarlausi letingi á hálfri öld.

það heitir ekki að þú hafir lifað nema að því leyti sem þú hefur starfað.

11. Að vinna með þeim kröptum, sem þjer voru veittir, er í sjálfu sjer einhver hin mesta ánægja. Iðjuleysi og sífeld hvíld er hegning og kvalræði, leti er sannur sjúkleiki líkama eða sálar.

12. Ekkert annað enn þarfleg starfsemi getur gjört þig að nokkru ágætan í mannlegu fjelagi. Guð og menn munu dæma svo, og sjálfur hlýtur þú að staðfesta dóminn. Iðjuleysi leiðir óumflýanlega til fyrirlitningar fyrir sjálfum sjer.

13. Jafnvel hinar skynlausu skepnur hafa ánægju af að æfa krapta sína; barninu er skemt, þegar það getur hlaupið með fjöri, og hefur sem mest til að leika sjer að.

14. En láttu þjer ekki nægja að hafa eitthvað fyrir stafni; starfsemi þín á ætíð að miða sjálfum þjer eða öðrum til gagns.

15. Reglusemi getur mikið stoðað þig í starfsemi þinni, því án hennar getur hún snúist upp í eljulaust annríki, sem engin ánægja nje blessun fylgir.

16. Gjörir þú gott, en ekki á rjettum tíma,

og gagn, en ekki á rjettum stað, þá sáir þú að sönnu, en það fræ fellur í ófrjófsama jörð.

17. Gakktu að störfum þínum með fúsum vilja og kappi, og ljúktu þeim af með gleði og ánægju. Álíttu aldrei stöðu þína lítilfjörlega; slík sjervizka er orsök til óendanlegs tjóns og armæðu.

18. Vertu viss um að það, sem í raun og veru gagnar sjálfum þjer eða öðrum, það þroskast þó seint þá samt áreiðanlega, svo framarlega sem þú ekki leggur árar í bát, heldur starfar að því með elju og kappi.

19. Fresta aldrei áformi þínu, að taka til starfa og byrja á hlutnum; leggðu strax hönd á verkið; því það er betra að margt fari miður, enn að allt falli niður.

20. Sá sem eitthvað hefst að, á þó nokkuð gott skilið, hinn ekki neitt, sem ekkert gjörir. Sæll ertu, ef þú í ellinni getur litið yfir uppbyggilegt líf!

21. En ekki skaltu samt vænta alls af sjálfum þjer; eigðu ekki æfinlega undir kröptum þínum. Helztu atburðir æfi þinnar spretta opt af atvikum, sem þú hafðir sízt gjört ráð fyr-

ir, og opt hefur það, sem þú hefur unnið að með mestu fyrirhöfn, fært þjer lítinn árangur.

22. Þú hefur á þínu valdi vilja þinn, vitsmuni og krapta, en guð allsherjar ræður kringumstæðunum; með þeim stjórnar hann mönnum, blessar athafnir þeirra eða ónýtir þær.

23. Ef þú vilt verða þinn eiginn lukkusmiður, þá hugsaðu ekki um hvað af athöfnum þínum leiðir, en hugsaðu um hitt, að þær sjeu góðar og vandaðar.

24. Viljann til hins góða hefur þú á þínu valdi; hamingjan til þess kemur frá hæðum.

25. Láttu þjer annt um að efla almennings heill án þess að ætlast til umbunar fyrir það; þú skalt meta alþýðu gagn meir enn þitt eigið; kauptu, þegar svo ber undir, allra heill með þínu eigin tjóni og hættu.

26. Hafi drottinn blessað þig með auðlegð, þá farðu og gjörðu marga af samþegnum þínum, sem fátækari eru enn þú, hluttakandi í þeirri blessun með gagnlegum fyrirtækjum.

27. Bíddu ekki eptir tækifærinu, heldur leitaðu þess sjálfur, svo að þú getir verið fjö-

laginu eða ættjörðu þinni til gagns og nota, heiðurs og sóma.

28. Þá deyr þú á síðan með þeirri meðvitund, sem sykrar biturleik dauðans: jeg hef ekki lifað til einkis, verk mín tala máli mínu!

# V. STUND.

## Áhyggja fyrir hinu ókomna.

1. Ber ekki drottinn umhyggju fyrir öllum sköpuðum hlutum? Elur hann ekki önn fyrir fuglunum í loptinu? Bíddu með þolinmæði og vonaðu með trúnaðartrausti og glataðu ekki glöðum huga; hann hjálpar þjer til að stríða unz þjer koma úrræði.

2. Að kvíða of mikið fyrir ókomnu böli og andstreymi er vottur um veika sál.

3. Sterkar sálir hafa líka áhyggjur, en þeim eru þær hvöt til forsjálni og öruggrar viðleitni ad bjarga sjer.

4. Mannskræfan lætur hugfallast og tínir lífinu í iðukasti ógæfunnar, því fyrir ofboðinu og óttanum, sem yfir hann kemur, sjer hann ekki hjálparmeðölin, sem fyrir hendi eru.

5. Áhyggjan í sjálfu sjer er heilsusamleg, því hún gjörir mann gætinn og alvörugefinn.

6. Án hennar mundir þú lifa hvorn daginn eptir annan greindarlaust eins og skepna, og hugsaðir ekki neitt um hið ókomna.

7. Í æskunni mundir þú af gjálífi gleyma ellidögunum; þú mundir ekki hirða um að sá út því frækorni, sem gæti ávaxtast og veitt þjer brauð; með hugsunarleysi um kjör barna þinna mundir þú svipta þau meðölunum til sómasamlegs framfæris.

8. Það er áhyggjan, sem setur þjer betur fyrir sjónir bresti þína og breiskleika, enn bezti vinur þinn, því hún vekur þjer kvíða fyrir afleiðingunum af öllu því, sem þú gjörir gálauslega og í geðshræringu.

9. Sá maður, sem hættur er að hræðast nokkuð, af því hann skeytir ekki um hvað rjett er eða rangt, er eins illa farinn og sá, sem búinn er að sleppa allri von.

10. Von og ótti eru leiðtogar dauðlegra manna af villustigum lífsins til musteris dyggðarinnar og varanlegrar farsældar.

11. En ekki skaltu vera of fljótur til að

sleppa þjer við áhyggjuna. Hún festist þá við þig og verður eitur í lífi þínu.

12. Vittu: þegar neyðin er stærst er hjálpin næst. Hugsaðu um hjálp forsjónarinnar og minnstu þess, að hún veitti þjer ávallt lið, þó þú hugsaðir að engin úrræði væri framar til.

13. Blíð von um bót á raunum huggar hinn ráðvanda, svo hann er glaður í anda og syngur sálma mitt í neyðinni. Hann syngur lof og dýrð skapara sínum mitt í þeim reynslu-eldi, sem guð bjó honum, og brosir að loganum, sem ekki getur brennt hann.

14. Með grátnum augum horfir fátæklingurinn fram á hinn ískyggilega tíma, sem í hönd fer; hans sorgmædda sál stynur undir mörgum áhyggjum.

15. Hún þráir rósemi; hún vildi svo fegin mega njóta þess hjartans friðar, sem ráðvendni og trúmennska, þarfleg iðjusemi og ástúðleg sambúð er annars vön að veita.

16. En tíminn fram undan honum líkist næturmyrkri. Hann litast um eptir ljósglætu í þeirri von að sjá einhverja, en sjer enga.

17. Hann óskar ekki eptir auð og allsnægt-

um, heldur að geta lifað án þungrar áhyggju fyrir daglegu brauði, og horft fram á það kvíðalaust að geta framfært konu og börn.

18. Óhuggandi út af vandræðum sínum veit hann ekki hvar hann á helzt hjálpar að leita. Sjálfur getur hann ekki sjeð sjer borgið, og öðrum er ekki svo kunnugt um kjör hans og kringumstæður, að þeir geti nokkuð úrráðið fyrir hann.

19. Líf hans er líkast næturmyrkri, er tungl gengur undir.

20. Þá rjettir huggunarengill honum sína mjúku hönd, kveikir ljós í myrkrinu og tendrar aptur hinn slokknaða vonarneista; — og það er trúin.

21. Í dimmu hryggðarinnar heyrir hann hennar helgu rödd eins og álengdar. Hún fyllir hjarta hans huggun og styrkleika, sem hann skilur varla sjálfur í, svo sála hans lyptir sjer upp með nýu fjöri og lífi.

22. Ó, sæt er sú huggun, sem trúin veitir, heilnæm sú lækning, sem trúarbrögðin láta í tje í lífsins áhyggjum! Blæðandi sárin gróa

saman, grátandi augun þerrast og allar sorgir sefast.

23. Já, guð yfirgefur þig ekki, þó mennirnir gjöri það, himninum sjest ekki yfir þig, þó jörðin sjái þig ekki.

24. Þú stendur uppi einn þjer, en þó ekki einmana; þú tjáðir engum frá þínum heimuglegu áhyggjum, og þó er sá einn, sem þekkir þær.

25. Enginn maður hefur sjeð þau tár, sem þú feldir í næturkyrðinni, enginn heyrt þau andvörp, sem þú stundir upp vegna ástands þíns; og þó var höfð tala á tárum þínum, og andvörp þín skrifuð upp.

26. Hann sem að undanförnu hefur reynst þjer hin óvinnanlega borgin, mun einnig reynast þjer það framvegis.

27. Fiðrildið lá lengi í hýðinu, en sá kom tíminn, er það fjekk að fagna tilveru sinni og lífi; það breiddi út vængina og flaug í lopt upp.

# VI. STUND.

## Óánægja með hið nærveranda.

1. Þú hælir opt þeirri hamingju sem þú áttir áður við að búa; þú minnist æskudaga þinna með viðkvæmum fögnuði.

2. Þú hefur jafnvel gaman af að tala um yfirsjónir og heimskupör æsku þinnar, þú minnist með ánægju á sjerhvern leikvöll, sjerhvert smáatvik hennar.

3. Með þessu spillir þú fyrir þjer þeirri gleði, sem þú nýtur í svipinn, og gætir þess ekki, að sá tími, sem yfirstendur, er ánægjusamari enn sá, sem liðinn er.

4. Þú hælir fyrri vinum þínum og vinkonum, sem þú ert búinn að missa; en þú minnist þess ekki, hversu opt þú leiddir þau hjá þjer, eða jafnvel hafðir af þeim leiðindi.

5. Þú munt einnig með viðkvæmri gleði minnast vinanna, sem þú nú átt, og hæla þeim, þegar þú hefur þá ekki lengur.

6. Þú hælir þeirri hægð og rósemi, sem þú hafðir um mörg undanfarin ár; en þú mannst ekki hve opt þjer leiddist sú rósemi, hve óá-

nægður þú varst og vildir komast í stöðu, sem fengi þjer meir að starfa.

7. Þú minnist með gleði og ánægju þeirra daga, er þú lifðir í alls konar unaðsemdum; en þú gætir þess ekki hversu opt þjer leiddust þessar unaðsemdir, hversu opt ógeðfeldir atburðir voru samferða þeirri gleði og glaum, sem þú lifðir í.

8. Þú hefur þjer allt af fyrir hugskotssjónum það sem liðið er, en virðir ekki hið nálæga þess að líta á það. Þú heldur, að þú verðir aldrei eins sæll og þú þykist áður hafa verið, fyr enn seint og síðar.

9. Þú lætur vonina lofa þjer öllu fögru, og metur svo viss gæði einkis hjá óvissum.

10. Þannig sækist þú sí og æ eptir einhverju, sem þú kallar betra, opt, ef til vill, eptir einhverju, sem þjer þykir nýtt.

11. Þessa eptirsókn ætlaði forsjónin fyrir spora á þig, er vekja skyldi þig af deyfð og dáðleysi og þrýsta þjer á fram til fullkomnunar.

12. Láttu hana því verða þjer að gagni en ekki að óláni. Láttu hana ekki hamla þjer frá að meta þá gæfu, sem þú átt við að búa.

13. Annars værir þú eins og ferðamaðurinn, sem ætlar að deya af þorsta, meðan hann hleypur eptir lækkjarbakkanum til að leita sjer að stað, þar sem hann eigi hægra með að drekka, en iðrast svo eptir að hann hljóp fram hjá mörgum stað, af því honum þykir aldrei næsti staður nógu góður.

14. Láttu ekki ímyndunaraflið hlaupa í gönur með þig! Það leikur sjer helzt að því sem í fjarlægð er; það lýsir hinu umliðna fyrir þjer glæsilegar enn það var; það sýnir þjer yndisleg blóm langt fram á æfinni, en skýlir fyrir þjer þyrnunum, sem þar eru innan um.

15. Þú mátt trúa því: kjör lífsins eru aldrei svo aum og ískyggileg, að ekki megi finna einhver gæði samtvinnuð vankvæðunum.

16. Lærðu að leita að þessum gæðum og finna þau. Hafðu þau þjer svo ætíð fyrir hugskotssjónum, og þá muntu sætta þig við kjör þín og telja þig sælan fyrir þau.

17. Jörðin er líka blómstrum stráð sjónarsvið margvíslegra unaðsemda; helvíti býr að eins í brjóstum þeirra manna, sem vilja hýsa það.

18. Með óseðjandi óskum spilla þeir friði hjartans, með óhóflegri nautn heilsu líkamans.

19. Með þeirri óþolinmæði, sem þeir bíða eptir því gæfuhnossi, er þeim þykir sig vanta, spilla þeir fyrir sjer nærverandi unaðsemdum og ánægjunni af þeim gæðum, sem þeir hafa.

20. Þannig fæðir hin óstjórnlega löngun eptir einu eða öðru heppihnossi flestar þær girndir, sem kvelja þig og særa.

21. Ef þú vilt því lifa sæll fyr og síðar, þá vertu sjálfur ánægður og gjörðu aðra það líka! Búðu þig út með þeirri staðfestu sálarinnar, sem lofar þjer að njóta með rósemi nálægra stunda og þeirra gæða, sem þær veita þjer; brynjaðu þig með því sálarþreki, að geta með glöðu geði verið án þess, sem forsjónin synjar þjer um.

22. Vertu ánægður við forsjónina fyrir það, sem hún hefur úthlutað þjer. Möglaðu ekki yfir kjörum mannlegs lífs, yfir því, sem þú kallar ójöfnuð af hendi hamingju þinnar eða tilviljunarinnar.

23. Óánægja þín umbreytir ekki hlutanna

rás; þú þrjótzkast með henni gegn hinni eilífu speki og gjörir þig sekan í glæp.

24. Vertu þá líka ánægður með sjálfan þig! En eigi máttu byggja þá ánægju á hjegómlegum sjálfsþótta, heldur á þeirri samkvæmni við sjálfan þig, að athafnir þínar aldrei mótsegi skyldurækt þinni.

25. Breyttu svo að þú getir borið virðingu fyrir sjálfum þjer, að þú sjert þjer ekki meðvitandi um nokkra yfirsjón eða afbrot, heldur geymir ávallt hreint hjarta og eigir að minnast góðra áforma og athafna.

26. Þegar þú í þessum skilningi getur verið ánægður með sjálfan þig, þá hefur þú lært til hlýtar þá mennt að vera þinn eiginn lukkusmiður.

27. Og sú mennt skilur ekki við þig, heldur fylgir þjer inn í eilífðina; því hún er kostur og tign, sem þú aflaðir þinni ódauðlegu sálu, en ekki dauðlega líkama.

28. Vertu líka ánægður við meðbræður þína. Ætlastu ekki til þess að þeir sjeu betri og fullkomnari enn þeir eru, heldur farðu vægilega og hyggilega að við þá. Enginn er svo

spilltur, að alls góðs sje varnað, eins og enginn dauðlegur er fullkominn og flekklaus.

29. Og þegar þú ert sjálfur ánægður, þá reyndu til að gjöra aðra það líka. Sú hamingja, sem þú býrð öðrum, sú ánægja, sem þú veitir þeim, er útsæði á þínum eigin akri, sem fyr eða síðar lætur þjer í tje gullvæga uppskeru,

30. Geislar sólarinnar eru eins blíðir þegar hún gengur niður, eins og þegar hún kemur upp. Hún hefur unnið og aflokið sínu fagra dagsverki og endar nú sitt skeið.

31. Hún hefur hresst og endurnært, vermt og lífgað; hátignarfull sígur hún að fjallabaki, og lengi eptir að hún er sjálf horfin, geislar ljómi hennar á tindunum; þetta er ímynd af andláti dánumannsins.

# VII. STUND.

## Heimilis ánægja.

1. Láttu þjer innilega annt um að glæða loga heimilis ánægjunnar. Láttu hann aldrei út af slokkna, jafnvel ekki á dögum neyðarinnar.

2. Þar sem ánægjan hýrgar hjartað, þar er

sambúðin skemmtilegri, vináttan innilegri; sjerhver gengur að verki sínu með glöðu geði.

3. Gleðin er ekki dýrkeypt, gott hjarta nýtur hennar af smámunum. Því nægjusamari maðurinn er, þess ánægðari lifir hann.

4. Styggðu ekki gleðina burt frá sjálfum þjer, eða af heimili þínu. Hún er viss að búa þar sem hvor elskar og virðir annan, og enginn vanrækir skyldur sínar.

5. Hreint hjarta gjörir lundina glaða. Gleðin flýr úr brjósti þess, sem ekki er ánægður við sjálfan sig.

6. Aflokin skylda, unnið verk, auðsýnd hlýðni sje hið fyrsta gleðiefni á heimilinu. Þess konar gleði byggir ánægju lífsins inn í hjartað.

7. Vertu ekki langrækinn, þó einhverjum yfirsjáist; það lýsir kærleiksleysi, sem ekki veit hve sætt er að fyrirgefa og byggir að þarflausu gleðinni úr brjósti sjer.

8. Einnig aðfindni og hegning á að spretta af elsku. Þegar elskan hegnir, svíður ekki tilfinningunni eptir á. Þegar búið er að refsa, á brotinu að vera gleymt og bræðin úti; með

því ávinnur þú meiri elsku hjá hinum seka og einlægara angur í brjósti hans.

9. Hver dagur hefur sínar unaðsemdir; en samt skaltu sæta lagi að gleðja hjú þín og gjöra þeim tyllidaga. Sjerhvað, sem kemur sjaldan að, eða er um fram daglega venju, gleður lundina og gjörir nautnina inndælli.

10. Varast skaltu sjerhverja skemmtun, sjerhvert gaman, sem sprettur af óhreinni rót. Með hæðni og ertingum má vekja hlátur en ekki gleði. Þú skalt forðast allar þess konar skemmtanir, sem hægt er að misbrúka og flekkað geta hugarfarið.

11. Láttu þjer innilega annt um að glæða ánægju á heimili þínu. Engin ánægja í lífinu snertir eins tilfinningar mannsins, engin ánægja er eins girnileg fyrir góð og óspillt hjörtu.

12. Illa er sá farinn, sem ekki getur haft ánægju innan um nánustu vini sína, heldur verður að sækja allar skemmtanir af bæ. Hann er gestur hvar sem hann kemur, og eins og gestur heima hjá sjálfum sjer.

13. Hann verður að búa einn yfir hörmum sínum, enginn vill taka hlutdeild í þeim með

honum, og gleðinnar má hann til að njóta með óviðkomandi, sem slá honum fyrir gullhamra.

14. Hann iðrast eptir þann dag, er hann rjetti fram hönd sína til ævarandi sambúðar; börn hans standa í kringum hann eins og sjálfvaxnir þyrnar án ávaxta

15. Víst eru blóðtengdir, sem binda saman mann og konu, foreldra og börn, bræður og systur, nánustu og helgustu tengdir á jörðinni. Vei þeim, sem vanhelgar þær með tilfinningarleysi hjartans!

16. Getur þú nokkurstaðar hvílzt eptir alla þína áhyggju og andstreymi með meiri ánægju enn heima hjá þjer, hjá konu þinni og börnum?

17. Getur nokkur hönd verið mýkri til að þerra tárin af kinnum þjer og dauðasveitann af enni þínu, enn hönd ástríkrar konu?

18. Með áhyggju gengur hinn iðjusami húsfaðir að störfum lífsins; með iðju sinni og atorku verður hann að sjá heimilinu borgið.

19. Og þegar erfiði dagsins er á enda, hverfur hann heim aptur til konu og barna, sem taka á móti honum með fagnandi hjarta og þakka honum með ástríku tilliti.

20. Það sem hann aflar og dregur að heimilinu, hirðir og treinir kona hans með sparsemi.

21. Hún lítur eptir öllu smáu sem stóru, og þykir ekkert of lítilfjörlegt. Hún hugsar ekki um annað enn heimilið, og gjörir allt til að efla ánægju þess.

22. Hún vakir með viðkvæmni og blíðu yfir öllum, sem henni eru áhangandi, og annast um einn og sjerhvern eptir hans þörfum. Öllum býr hún einhverja ánægju á hverjum degi.

23. Þannig er heimilisfriður himnaríki, ófriður helvíti. Ef þú vilt njóta þessa friðar, þá vektu fyrst af öllu anda trúarinnar hjá þeim, sem þú átt að umgangast.

24. Vertu sjálfur hinn fyrsti, sem gengur á undan öðrum með góðu eptirdæmi! Vorkenn veikleikanum, örfa dygðina, rek burt ólundina, vertu öllum allt!

25. Byggðu samlyndið á innbyrðis virðingu. Þar sem samlyndið vantar, drottnar úlfbúð og tvídrægni.

26. Sýndu öllum á heimili þínu sífelda blíðu en þó alvörugefni. Hvort sem þú finnur að, heimtar eða sinjar, þá gjörðu það með hóg-

værð, en ekki fúkyrðum eða fyrirlitningu. Varastu að meiða sómatilfinninguna eða blygðunarsemina.

27. Útrým allri tortryggni. Tiltrú fæðir af sjer trúmennsku. Svíktu engan jafnvel ekki í gamni.

28. Reyndu að halda ást og trausti barna þinna. Vendu þau á sannsögli og hreinskilni við þig, þegar þeim hefur orðið eitthvað á. Gjörðu þau ekki að hræsnurum með óviðurkvæmilegri hörku.

29. Vendu þig á þagmælsku um heimilishagi þína. Hún er varnarskjöldur heimilis ánægjunnar. Ef þú snarar honum burt frá þjer, missir þú af valdinu, og mátt sjálfum þjer um kenna, og óviðkomandi menn taka ráðin af þjer.

30. Vertu við sjerhvert tækifæri hinn fyrsti, sem eflir mannelsu, innbyrðis traust og gott samlyndi á heimili þinu!

# VIII. STUND.

## Synd og barátta.

1. Sjerhver maður freistast til syndar, og sjerhver aldur hefur sínar freistingar.

2. Æskumaðurinn freistast af ljettúð og gjálífi, fullorðni maðurinn af girndum og vondum vana, gamalmennið af hugleysi, breiskleika og sjerþótta.

3. Hugsaðu þig um hvernig þú getur sneitt hjá freistingunni! Hafðu vald á skilningarvitunum og stjórn á girndunum. Því lengur sem þú stríðir, þess styrkari verður þú í hinu góða og hæfilegri til að lifa bæði þessa heims og annars.

4. Fyrir sannkristinn mann er freistingastundin sigurhróss stund; hún sýnir bezt trúrækni hans og guðhræðslu. Aldrei hefur hann betra tækifæri enn þá til að sýna mikilleik sálar sinnar.

5. Það eru freistingastundirnar, sem sannkristinn maður lítur á með mesta fögnuði við enda æfi sinnar; þær eru líka áreiðanlegasti votturinn um, að andi hans sje hæfur fyrir annað líf og æðri störf.

6. Það er endurminningin um þær, sem gjörir hann svo sælan á sóttarsænginni, þegar hann rennir augunum til eilífðarinnar og getur sagt við sjálfan sig: einnig jeg hef barizt góðri baráttu!

7. Til þess þú getir staðizt freistinguna, eins og hæfir, hlýtur þú um fram allt að láta þjer annt um að læra að þekkja þínar syndsamlegu girndir og vana, því ekki tekst þjer að sigra yfirsjónir þínar nema þú þekkir þær og þá rót, sem þær spretta af.

8. Taktu þá þann einlæga ásetning, að lifa gagnstætt því sem þú hefur áður lifað, að gjöra þvert á móti því sem þínar syndsamlegu girndir heimta af þjer.

9. Forðastu sjerhvað, sem getur ginnt þig að nýju til syndar eða yfirsjónar; leiktu þjer ekki að því að vekja ástríðu syndarinnar í því skyni að ætla þjer að kæfa hana niður aptur; það er hættulegt að leika sjer að valdi lastanna.

10. Maðurinn er æfinlega veikastur, þegar hann þykist sterkastur. Sá sem flýr freistinguna er hetja; sá sem er svo djarfur að hætta sjer út í hana, til að berjast fyrir kórónu dyggðarinnar, hefur þegar misst af henni, áður enn til baráttunnar kom.

11. En falli freistingin óvörum yfir þig, þá vertu fastur fyrir og hafðu við alla gætni.

12. Vertu fljótur til að snúa huga þínum frá

freistingunni og festa hann á einhverju öðru; láttu hann ekki hvarfla aptur að hlutnum, sem freistar þín, og flýðu þann stað þar er syndin skal fremjast.

13. Hugsaðu aldrei á þá leið: jeg ætla rjett að dreypa ögn í hið sæta eitur í bikar þeim, sem syndin rjettir mjer. Fyrsti dropinn hefur töfra-afl, svæfir þig og sviptir viti.

14. Horfðu ekki á, heldur hrittu frá þjer töframyndum þeim, sem löşturinn bregður fyrir augu þjer, til að seiða þig að sjer; varðhaldsengill þinn grætur en víti hlær.

15. Minnstu á gröf þína! Minnstu á angrið, sem ætíð kemur eptir á. Ekki getur næturmyrkrið falið yfirsjón þína, hrösun þína. Dagsljósið skín yfir hana. Með stundarnautn bakar þú þjer margra ára angur og gremju.

16. En eins særandi og er kvalræði angursins og blygðunarinnar, eins sælufull er meðvitundin um sigur í baráttunni.

17. Syndin er neisti, sem lifir í brjósti sjerhvers manns, og sem hann nákvæmlega verður að gjalda varhuga við.

18. Mannsins eigið gáleysi og hneigslanir

annara blása upp loga af neistanum, og verður af það bál, sem bágt er að slökkva.

19. Syndin er líkust stöðuvatni, sem vex smátt og smátt í sífeldum rigningum.

20. Það ber lítið sem ekkert á vatnavextinum, en eigi að síður vex það dag frá degi. Vatnið stígur með hverri stundu, og hættan verður eins mikil og vatnið hefði hlaupið upp allt í einu í jarðskjálfta.

21. Þess vegna [illegible]r líka hinn hyggni og reyndi maður, undir eins og rigningarnar byrja, að vitja um flóðgarðana og stíflurnar, hvert þær geti varnað vatninu að hlaupa fram.

22. En heimskinginn og sá sem enga reynslu hefur, skeytir ekki um vatnavöxtinn, fyr enn stíflurnar klofna og vatnið flóir yfir allt.

23. Svona er syndinni varið og því tjóni, sem hún gjörir vorum innra manni. Sjerhver sem heldur áfram í synd forherðir hjarta sitt, svo hann gefur engan gaum að hinni vaxandi spillingu, fyr enn glötun og skelfing rífur hann upp af svefninum.

24. Slíkum manni þykir sem allt af sje nóg-

ur tími til að gjöra enda á því valdi, sem syndin hefur yfir honum.

25. En jafnvel þó hann finni, að það hljóti einhvern tíma að enda, leiðir það þó einmitt af valdi syndarinnar, að hann vill draga vírinn dag frá degi, að hann kvíðir fyrir sjálfum sjer, þegar hann er búinn að afneita syndinni, og heldur að hann verði eins og maður, sem líf og önd er liðin upp af.

26. Hann er hræddur um að þeir limir og þau öfl, sem hann nú þjónar syndinni með, missi þá allt líf og fjör, því hann hefur ekki neina ljósa hugmynd um það sælufulla ástand, sem hann þó fljótt mundi finna að hann er kallaður til.

27. Þannig heldur hann án afláts áfram í syndinni, þangað til hún leiðir yfir hann glötun, og hann getur ekki aptur snúið.

# IX. STUND.

## Vald vanans.

1. Æ, lærðu maður! að hræðast vald vanans. Það sem þú í fyrstu áttir hægt með að vera án,

gjörir vaninn þjer að nauðsýn, og hann neyðir þig til, opt á móti þinni betri vitund, að fullnægja þessari nauðsýn við og við.

2. Drykkjumaðurinn hafði í fyrstunni ánægju af þeirri glaðværð, sem hófleg nautn áfengs drykkjar veitti honum. Honum fanst hann lifna allur eins og af einhverju heilsusamlegu læknismeðali.

3. Hann sætti lagi að veita sjer þessa ánægju á ný, eða naut hennar optast, þegar eitthvað ógeðfelt kom fyrir, sem svipti hann gleði.

4. Honum hafði aldrei til hugar komið, að hann með þessu móti gæti orðið að drykkjurút, sem á síðan mundi baka sjálfum sjer fyrirlitningu allra góðra manna, konu og börnum grát og gremju, mundi sóa út eigum sínum og jafnvel flýta dauða sínum.

5. Fyrst framan af fann hann hjá sjer nægan styrkleika til að geta vanið sig af drykkjuskapnum hverja stund sem hann vildi, og hann taldi það víst, að svo mundi allt af verða.

6. En honum brást það. Vegna óaðgætni hans í upphafi varð yfirsjónin að lesti, vaninn

að óviðráðanlegri girnd, honum varð ekki viðhjálpað, svo hann steyptist í glötunina..

7. Speglaðu þig, maður! í þessu dæmi, og trúðu því að lítil synd leiðir æfinlega til annarar stærri. Eins og eitrið vinnur ekki einungis á þeim hluta líkamans, sem það beinlínis snertir, heldur læsir sig líka út í alla útlimi, eins mun líka ein ódyggð, sem þú heldur að þjer sje óhætt að byggja inn í hjarta þitt, spilla öllum þínum innra manni.

8. Þess vegna máttu ekki leiða hjá þjer nokkra þína yfirsjón, hvað lítil sem er Gættu þess: hún stendur eins og varða a vegi þínum og bendir þjer á glötunina.

9. Maðurinn er einmitt jafnfallinn til ills og góðs. Syndin bendir honum og dyggðin bendir honum.

10. Forsjónin gaf honum frjálsræðið og samvizkuna, svo hann getur þekkt og valið hið góða.

11. Gæti manninum ekki yfirsjest, væri ekki um styrk að tala til að breyta rjett; án tilefni til syndar, væri ekki tilefni til dyggðar.

12. Það sem er jarðneskt í þjer dregur þig án afláts til jarðnesks unaðar. Það sem er andi

sækist eptir hinu heilaga og guðdómlega og þráir hið eilífa, sem andinn á skylt við.

13. Forsjónin gaf þjer skilningarvitin, til að skynja með fegurð sköpunarverksins, og til að auka ánægju þína á jörðunni með skynsamlegri nautn hennar jarðnesku gáfna. En þú syndgar með nautninni, þegar þú hennar vegna vanrækir æðri skyldur.

14. Hinn dyggðugi nýtur unaðsemda lífsins, en setur girndum sínum skorður; hann lætur andann hreinsa og helga sjerhverja nautn og tilfinningu.

15. Aldrei lætur hann holdlega fýsn verða að skaplesti, er með stjórnlausu valdi geti veikt og niðurkæft alla betri vitund.

16. Hann veit að skaplösturinn mundi leggja fjötur á skynsemina, brjóta niður musteri guðs í brjósti hans, svipta hann rósemi og gætni á sjálfum sjer, styrk til hins góða og sjerhverri dyggð.

17. Hann sjer sig í spegli á hinum úttaugaða syndara, þar sem hann skjögrar á fram fölur og tærður, með eitruðu blóði í æðunum, með hugleysi og hræðslu í hjartanu; þar sem hann nístist dauðans kalda hryllingi með kvíða

og skelfingu; þar sem hann hrapar frá smán til smánar, frá einum glæp til annars, því skaplösturinn dregur hann á fram að glötunardjúpinu, uns út af sloknar allt í einu hans dapra lífsljós.

18. Hann veit hversu fljótt lítil fýsn, sem hefur sín upptök í holdinu, þróast þegar henni er ekki stjórnað; hann flýtir sjer að kæfa hana niður, svo hann verði ekki hrifinn af vananum og síðan fjötraður af lestinum.

19. Ef þú vilt, maður! geta stjórnað sjálfum þjer, og ekki láta girndir þínar yfirbuga þig, þá farðu og breyttu eptir dæmi hins dyggðuga.

## X. STUND.

### þekking og stjórn á sjálfum sjer.

1. Sjálfsþekking er vegur til sannrar dyggðar og ástsældar, hún útvegar manni hylli bæði guðs og manna.

2. Eins og enginn húsbóndi getur tilhlýðilega stjórnað, því síður aukið efni sín, ef hann eigi veit hve mikið hann á, og hvers virði það er, og þekkir ekki dugnað eða ódugnað hjúa sinna;

eins getur þú ekki eflt fullkomnun þína, aukið þína góðu kosti, lagt niður bresti þína og innrætt þjer nýa mannkosti, meðan þú ekki þekkir sjálfan þig.

3. Þú vilt þóknast öðrum. Af þeirri löngun spretta ríkustu tilhnegingar þínar, helztu dyggðir og verstu lestir í fari þínu.

4. Þessi löngun á sjer rót í þeirri ást og virðingu, sem þú ber fyrir öllu er í sinni tegund er fullkomið, gott, satt og fagurt. Án hennar værir þú eins og skepna, sem ekki skeyttir neitt um annara hylli og legðist í dvala og dá, undir eins og þú værir búinn að sefa hungur þitt og svala þorsta.

5. En þegar þjer tekst ekki að ná hylli manna, þá skaltu vita að það kemur til af því að þú þekkir ekki sjálfan þig og þykist svo góður, að þú hirðir ekki um að læra að þekkja þig.

6. Sjálfselskunni þykir allt gott, sem á sjálfum er, og hælir öllu, sem þú gjörir. Hún leyfir þjer ekki að meta sjálfan þig rjett; hún tekur fegins hendi á móti öllu hóli, og þykir það ekki meir enn skylt.

7. Hún skýlir fyrir þjer brestum þínum og yfirsjónum, og gjörir lítið úr þeim, með því að bera þær saman við annara ódyggðir, sem sýnast meiri.

8. Rektu hana burt frá þjer. Leitaðu vægðarlaust að yfirsjónum þínum, að þeim syndsamlega tilhneigingum, sem hjá þjer drottna, að þeim veikleika og breiskleika, sem þjer er meðfæddur, eða þú ert búinn að venja þig á.

9. Þinn góði engill, samvizkan, gjörir þig blíðlega varan við sjerhvern veikleika hugarfarsins, sjerhvern breiskleika hjartans.

10. Viljir þú ekki eiga undir þínum eigin dómi, þá veldu þjer trúan vin, og talaðu við hann í einrúmi um það, sem helzt stríðir á þig.

11. Eða hlustaðu á tal keppinauta þinna, mótstöðumanna, óvina. Þeir dæma þig harðar, þeir sjá einnig flýsina í auga þínu. Þó þeir ýkji allt, þá settu það ekki fyrir þig.

12. Jafnaðu þjer saman við aðra, sem þú virðir og elskar; skoðaðu hvað það er, sem gjörir þá virðingarverða og þrýstir þjer og öllum góðum mönnum til að unna þeim.

13. Ímyndaðu þjer á einverustundum þínum

mann eins og þú ert, með öllum þínum tilhnegingum, óskum og ástríðum; vildir þú vera vinur þess manns, eiga saman við hann að búa alla þína æfi?

14. Legg hönd á hjarta þitt og spyr það. Óskandi væri að þú fengir það svar, sem þú helzt vildir.

15. Án sjálfsþekkingar er engrar farsældar von. Enginn sækir til þín lækninn, ef þjer finnst þú eigi vera sjúkur; og enginn hverfur aptur af villustigum sínum, ef hann er eigi viss um, að sá vegur, sem hann gengur á, er rangur og hættulegur.

16. Virðingarverður er sá maður, sem þekkir sjálfan sig og getur eptir því stjórnað sjálfum sjer, sem stendur óbifanlegur fyrir ginningum holdsins, ofsa geðshræringanna, ástríðu metorðagirndarinnar, hjegómadýrðarinnar, munaðar- og reiðigirninnar; hann er frjáls maður innan um þræla.

17. Hann er virðingarverður, því ekkert líkamlegt vald getur beygt hann, engin hamingja raskað jafnaðargeði hans, engin óhamingja varpað honum til jarðar.

18. Hann bifast ekki í neinum stormi; en

sjálfur sigrar hann allt, því hann stjórnar girndum sínum og geðshræringum, svo þær ráða engu um áform hans.

19. Hann er undrunarverðari enn mesti lista- og lærdómsmaður, þó þeir leysi af hendi þau verk, sem menn stara á eins og heimsins furðuverk, en geta þó ekki friðað um rósemi og ánægju í sínum eigin hjörtum.

20. Hann er hafinn yfir brögð og hrekki hins daglega lífsins; hann eflir þar heill sem aðrir valda tjóni af sjálfselsku.

21. Hann er hafinn yfir mótgjörðir og hefndir, svo þær aptra honum ekki frá að vera velviljaður og gjöra þeim gott, sem hata hann. Hann hefnir sín með því að gleyma og fyrirgefa.

22. Hann er hafinn yfir þá auðvirðilegu viðleitni, sem flestir hafa, er leita allrar sinnar ánægju í að gæða skilningarvitunum, og seðja eina eður aðra hjegómlega ósk.

23. En þrátt fyrir þessa stjórn, sem hann hefur yfir sjálfum sjer, svo hann getur geymt hjarta sitt flekklaust, hatast hann þó ekki við þá, sem yfirsjest; heldur álítur þá sem sjúklinga, eins og þeir raunar eru, er þeir láta

holdið stjórna andanum, svo sem villuráfandi menn, er sækjast eptir ímynduðum gæðum, eða velja röng meðöl til augnamiðs síns.

24. Hann er hafinn yfir ástríðu sjálfselskunnar og eigingirninnar. Hann vill ekki vera betri enn aðrir menn, til þess að verða virtur meir enn aðrir. Vildi hann það væri hann ekki dyggðugur.

25. Hann gjörir ekki gott í ávinningsskyni; gjörði hann það, væru góðverk hans ekki dyggð, heldur kænska og eigingirni. Hann elskar dyggðina af því hún er guðdómleg.

26. Hann keppist eptir að verða fullkominn og guði líkur, því andi hans er frá guði kominn og vill aptur sameinast sælum guði.

27. Hann elskar lífið af því hann lifir í guði, en hræðist ekki dauðann, af því hann er eigi annað enn breyting á tilveru hans.

28. Hann fyrirlítur ekki skemmtanir lífsins, en hann hefur þær ekki til annars, enn hressa með þeim líkamann og styrkja hann til vinnu. En hann sleppir af sjerhverri skemmtan, þegar hann með því getur eflt annara heill.

29. Hann er æfinlega og alstaðar ríkur af

elsku til manna, eins og guð er það. Óþakklæti manna getur ekki kælt þá elsku hjá honum. En góðverk sín gjörir hann heldur í leyni, enn fyrir manna sjónum

30. Hann einn veit rjett að verja lífi sínu. Hann minnist þess sem liðið er, hagnýtir það sem yfirstendur, og hefur vissa ætlun með það sem ókomið er. Þetta samband, sem hann hefur á milli þessara kafla, gjörir líf hans langt.

# XI. STUND.

## Iðja og gleði bænarinnar.

1. Sá sem getur fallið í örvæntingu, hefur aldrei reynt hversu afl bænarinnar eflir og styrkir huga hins ráðvanda.

2. Bænin er hin hátíðlegasta og þýðingarmesta iðja í lífinu. Hún er ekki jarðnesk heldur himnesk iðja.

3. Allir biðja. Vitrustu og beztu mennirnir biðja, því í hjörtum þeirra er löngun eptir samfjelagi við guð sterkust og hátöluðust.

4. Gamalmennið biður, því guð hefur svo

bersýnilega birt sig fyrir því í lífsins margvíslegu atburðum.

5. Konungar jarðarinnar biðja í hásætunum; þeir finna líka til veikleika síns; þrátt fyrir það glis og prjál, sem umkringir þá, kallar hjartað til þeirra: þú ert dupt!

6. Hinn fjörugi og glaðværi æskumaður biður, þegar hann er kominn frá gleði og glaum í einveru og kyrrð næturinnar.

7. Mitt í blómheimi æskunnar eygir hann álengdar vindský hinna komandi ára, og honum blöskrar að hugsa til þess, hve veikur hann er af sjálfsdáðum til að mæta þeim.

8. Hann snýr sjer þá til guðs, því hann þekkir engan vin, sem er tryggari, engan föður, sem er ástríkari, engan verndara, sem er voldugri.

9. Móðirin biður innan um sinn fríða barnahóp; drottinn gaf henni þau til ánægju í lífinu, — hann getur tekið þau af henni aptur; nafn hans er hjá henni í sífeldri bæn og blessan.

10. Hin harmandi ekkja biður við líkkistu síns trúfasta maka; veröldin er nú í augum hennar í eyði og tóm; hún hefur misst sína beztu eign; guð hefur hún samt í huga sjer og sælufulla von, sem ekki deyr í gröfinni.

11. Sælkerinn fer líka loksins að biðja, er hann pínist og kvelst á sóttarsænginni. Stundaglasið segir honum: þetta líf er engin eilífð! Í speglinum sjer hann líkneski, sem líkist hon-

um; honum ofbýður hve tilgangslaust hann hefur sóað burt æfi sinni.

12. Dánumaðurinn biður þegar hann hefur gjört eitthvert góðverkið og gengur út undir guðs fríða himin, og hann þá verður svo hrifinn af skrauti sköpunarverksins, að honum kemur tár í auga.

13. Þykir þjer lítið koma til að feta í hans guðrækilegu fótspor? Skeytir þú ekki um þá sælu að finna bænarinnar himneska afl í hjarta þínu?

14. Þú skalt þó vita það, að hvað vitur og góður sem einn kann að vera, er hann samt ekki annað enn veikur og dauðlegur maður.

15. Hann getur ekki allt af, jafnvel ekki til lengdar, haldið þeim háleitu hugsunum, sem hann á vissum tímum getur hafið sig til, þegar sála hans losar sig mest við hið jarðneska og lyptir sjer næst guði.

16. Því er honum ómissandi að snúa sjer iðuglega til guðs með auðmýkt og trú, til hans, sem stendur við stýrið í sínu allsherjar ríki. Til hans, sem öll góð og fullkomin gjöf kemur frá, sendir hann lotningarfullan huga, hljótt andvarp. Það er bæn! bæn í eyra hans, sem þekkir allar hugrenningar.

17. Glaðvært trúnaðartraust fyllir brjóst hans; hann nálgast guð og finnur að hann er í sambandi við hann. Hann lyptir sjer upp yfir jarðneskan hjegóma og verður eins og æðri og guðdómlegri. Glaðvær von streymir í gegnum sálu

hans og himnesk ánægja lýsir sjer á öllu látbragði hans. Þetta vinnur bænin. Þetta er afleiðing af nærveru guðs.

18. Bið þú! bið heitt og innilega, og þú hræðist þá ekki neina óhamingju! Minnstu þess er þú stóðst frammi fyrir guði með harmþrungnu hjarta og andvarpaðir um frelsi.

19. Rifjaðu upp fyrir þjer þær stundir er allir þínir vegir voru huldir myrkri, og þú mitt í þinni örvæntingu leitaðir til guðs með sonarlegu trúnaðartrausti og kallaðir: jeg sje aldrei glaðan dag framar, ef þú ekki lætur birta á hinum ókomna tíma!

20. Og sjá! kringumstæður, sem þú áttir enga von á, atburðir, sem opt sýndust lítilfjörlegir — þú kallaðir þá tilviljan og hendingu — frelsuðu þig og hjálpuðu þjer úr öllum vanda. Þú gjörðist aptur gæfumaður og glaður í huga. Og þetta vinnur bænin!

# XIII. STUND.

## Guðrækni.

1. Ef þú vilt, maður! að hjarta þitt komizt við og lypti sjer til guðs, ef þú vilt vekja guðrækilegar tilfinningar í brjósti þínu, þá skaltu fara og koma á það heimili, þar sem dyggð og guðrækni á heima, einmitt þá stundina sem þar eru um hönd hafðar hugleiðingar um hið helg-

asta og háleitasta, sem til er í lífinu, um guðdóminn sjálfan.

2. Fannst þjer þú ekki vikna við þau tárin, sem hnöppuðu sig eins og daggardropar í auga móðurinnar, þegar hún var að biðja guð að varðveita líf og heilsu barna sinna, og annast um sakleysi þeirra og velferð?

3. Var það svo — viknaðir þú ekkert, þegar heiðvirður faðir sat berhöfðaður hjá konu og börnum og stílaði bæn sína til konungs konunganna, guðs almáttugs, um heill og blessun fyrir ástvini sína?

4. Skyldi ekki hin fegursta allra tilfinninga hafa hreift sjer í brjósti þínu, þegar efnilegt ungbarn í æskublóma fórnaði upp höndum í sakleysi sínu og mælti fram bænarorð, til að biðja hinn ósýnilega fyrir foreldrum sínum og systkynum?

5. Farðu þangað og lærðu að leita guðs! Lærðu það á þeim stað, þar sem húsbóndinn sjálfur eða hin guðhrædda húsmóðir gjörist þjónustumaður og þjónustukvinna hins góða guðs.

6. Undir því þaki, þar sem hinn biðjandi þiggur gáfur hins eilífa, þar sem hann tekur á móti heilsu og vanheilsu, og þar sem á síðan banasæng hans kann að standa.

7. Farðu þangað, syndugur maður! og lærðu að biðja guð og tilbiðja hann. Leitaðu þjer þar styrks til lífernisbóta og til staðfestu í hinu góða.

8. Þú eflir með því gæfu bæði sjálfs þín og

annara; þú lærir að þekkja þá ánægju, sem heimilislífið veitir; hjarta þitt og hugskot hreinsast og skýrist, hugur þinn verður rósamari, því þín góða samvizka gleður hann og kætir.

9. Þú nýtur lífsins með meiri gleði, af því þú nýtur þess með meiri rósemi.

10. Eða viltu ganga út undir guðs fríða himin? Gakktu það þá þegar vorið fer að skreyta jörðina sínum ótölulegu blómum, þegar fuglarnir fylla loptið ótal röddum, þegar lóan fer að syngja: dýrðin! dýrðin! og eins og einhver unaðsljómi leikur yfir hverjum bletti.

11. Horfðu á hvernig faðirinn hrærður og hrifinn bendir syni sínum, sem hlustar á með athygli, á menjar guðlegrar speki; sýnir honum hversu aðdáanlega forsjónin hefur niðurraðað öllu.

12. Gakk út í musteri náttúrunnar, horfðu og hlustaðu! Og verðir þú hrifinn af að sjá öll þessi dásemdarverk, þá finnur þú til lotningar fyrir guði og ferð sjálfur að vegsama hann.

13. Vanræktu ekki á helgum dögum að fylgja guðrækilegu dæmi þinna samkristnu bræðra.

14. Sá staður sje þjer heilagur, þar er forfeður þínir báðust fyrir til hins eilífa, og þar er niðjar þínir einnig munu leita í bænum til hans.

15. Sunnudagurinn er dagur drottins. Hann er öllum þjóðum hvíldardagur frá jarðneskum störfum og umsvifum, svo að sálin geti hafið

sig yfir áhyggjur lífsins og lypt sjer til andanna föðurs, til að skoða sína eilífu ákvörðun.

16. Láttu þig ekki vanta á þeim stað, þar sem orð drottins er kennt, þar sem brýndar eru fyrir sálu þinni áminningar og eptirdæmi upp á guði þóknanlega breytni, og þar sem leyndardómar trúarinnar eru rifjaðir upp fyrir minni þínu.

17. Horfðu ekki tilfinningarlaus á hið heilaga skírnarfat, þar er þú eins og ungbarn varst helgaður Kristi, eða á þann stað, þar sem þú viknaðir svo mjög er þú varst tekinn inn í söfnuð kristinna manna, og tókst í fyrsta sinni hlutdeild í minningarmáltíð þins guðdómlega kennara og sáluhjálpara.

18. Virtu vel fyrir þjer hinn heilaga stað, þar er þú stóðst hina mikilvægu stund, er maki þinn var með bænum til guðs vígður saman við þig þjer til samfylgdar í lífinu.

19. Líttu yfir hinn guðrækilega söfnuð, þar sem þú sjerð gamalmennið við hliðina á barninu, heilsulausan mann fölleitan hjá heilbrigðum manni með blómlegu útliti, alvörugefinn iðju- og starfsmann hjá ljettúðugum æskumanni, hryggan mann með döpru bragði hjá glaðværum manni brosandi.

20. Horfðu á þetta og hugsaðu með þjer: eptir hundrað ár eru allar þessar blómlegu og fölleitu myndir horfnar burt af jörðinni, aðrar myndir komnar í staðinn, og sjálfur sjezt þú þar ekki heldur.

21. Þá vaknar hjá þjer andi guðrækninnar og hrífur þig ósjálfrátt til að taka hlutdeild í hinni háleitu athöfn opinberrar guðsdýrkunar.

22. Þó á ekki einungis sú stundin, sem sjálf guðsþjónustan stendur yfir, heldur allur sunnudagurinn að vera helgaður sálu þinni til framfara í því sem gott er.

23. Drottins dagurinn er hvíldardagur, sem veita á líkama þínum afl og sálu þinni styrk til að búa þig undir störf vikunnar.

24. Hjúum þínum áttu líka að unna hvíldar, svo þau geti líka lifað glöð við lífsins strit.

25. Þú skalt hvílast af öllum störfum öðrum enn góðverkum, því með þeim þjónar þú guði bezt.

26. Neitaðu ekki sjálfum þjer nje þínum um leyfilega skemmtun, sem þú verður að sinja þjer um virku dagana vegna starfa þinna og annara kringumstæða.

27. Þegar gleði og ánægja skín á öllu, skyldir þú þá byggja henni, svo inndælli tilfinningu, út úr hjarta þínu? Hefur þú ekki haft þína sorg og harma um vikuna? Og því skyldir þú þá slá hendinni á móti ánægjustundum helgarinnar?

28. En snúist gleðin upp í gjálifi, valdi hún ósamlyndi, leiði hún til syndar, olli hún angurs, þá forðastu hana, svo hún spilli ekki hjarta þínu.

29. Prýddu sjerhvern dag sem þú lifir með einhverju góðverki, þá þjónar þú guði bezt og hefur allt af nóga ánægju.